{Þeirra íslendsku evangelisku Smárita Nr. 62.}

# Ræda

## haldin þann 31ta Octbr. 1817, í minníngu Trúarbragda endurbótarinnar.

Textinn, Jóh. 8, 12.

Í þann tíma, Jesus taladi enn aptur til þeirra: Eg em Ljós heimsins; hvør hann fylgir mér eptir, sá mun ei gánga í myrkrunum, heldur skal hann hafa Ljós lífsins.

### Inngángurinn.

Þad sem Ljósid er þeim náttúrliga heimi, þad eiga Trúarbrøgdin ad vera þeim andliga.

Ljósid þénar manneskjunum til ad géta gjørdt þaug verk og framkvæmt þær athafnir, sem þurfa til þessa náttúrliga Lífs vidurhalds og velførnunar; en Trúarbrøgdin eiga ad þéna til þess, ad kénna oss, ad vidhalda hjá oss andlígu lífi, sem yfir høfud fólgid er í sønnum ótta og elsku til vors skapara; og undir eins eiga þaug ad vísa oss veg, til ad verda eilífliga luckuligir. Nú svo sem þar eru (ad eg svo til orda taki) líka sem tvær uppsprettur ljóssins í þeim náttúrliga heimi, nefniliga Sólin á himninum og eldurinn á jørdunni, svo eru og svo í þeim audliga heimi adrar tvær ljósuppsprettur, ønnur á himni og ønnur á jørdu.

Sú himneska ljósś uppsprettа er Ritníngin, en sú jarðneska skynsemin. Eins og nú báðar þær náttúrligu ljóss-uppsprettur hafa einn og sama höfund, nefniliga náttúrunnar herra og skapara, svo og svo allt eins þær andligu uppsprettur.

Hann er-Faðir þessara tvøfoldu tvennslags ljósa, bæði í þeim náttúrliga og andliga heimi; hvar fyrir honum, með øllum og fullum rétti, tilheyrir titill sá, sem heil. Ritníng géfur honum, að heita „Faðir ljósanna;" og að hann sjálfur sé það ljós, í hvørju eingin myrkur eru." Leifið mér nu, bræður! að útlista þessa samlikíngu með fleirum orðum þessu mikilvæga málefni til frekari upplýsingar! Svo mikill munur fegurðar og nota, fyrir það likamliga líf, sem er á milli þess ljóss, sem Sólin meddeilir af himninum, og þess ljóss, sem eldurinn af sér géfur á jørðunni, rétt eins mikill og meiri til, er munur fegurðar þeirrar og gagns fyrir andligt líf, sem Ritníngarinnar og skynseminnar ljós í tje lætur. Því svo aumstaðt sem yrði í verøldunni, ef menn hefðu ekkert annað ljós að hjálpa sér við, til sinna náttúrligu nauðþurfta, enn það sem þeir gjætu tendrað sér sjálfir, út af eldsins materíu, og brúkað í húsum sínum, eður með skriðbittum ratað stættann veg húsa á milli, eins hørmuligt yrði ástand mannkynsins í heiminum, ef það hefði ei annað fullkomnara ljós við að styðiast í tilliti andligra efna, enn það sem mannlig skynsemi út af fyrir sig meddeilir.

Allt fyrir það, þó dagsins ljós sé miklu ágjætara og notasælla helduren eldsins, sem af mønnum tendrað er, þá er þó þetta síðarnefnda eingu að síður til mikills gagns, hagnaðar og ánægju, og maður gétur fyrir þess brúkun ásamt dagsljóssins, því fremur fullkomnað sína

líkamligu luckn. Rétt eins er varid um ljós Ritníngarinnar og skynseminnar, ad þó hid fyrra sé þúsund ágjætara hinu sídara, er þó hld sídara eingu ad sídur til mikillra nota, eg meina í tilliti andligra efna; nefniliga til ad kénna manni ad dýrdka Gud réttiliga, og lifa því lífi, sem undirbýr manni eilífa farsæld. Þar fyrir, svo sem hvörigs má án vera, í tilliti náttúrligs lífs, eldsins né sólarinnar, elns líka er hvörutveggja, bædi skynsemin og Ritníngin, aldeilis ómissandi til vidmagtheldis hins andliga lífsins. En svo sem sá mundi og mætti dári haldinn verda sem forsmádi dagsins og sólarinnar ljós vegna þess ljóss, sem hann gjæti sjálfur kveikt sér af þeim náttúrllga eldi, og segdi ad þad sama væri sér og ødrum meir enn nóg, til allra nytsamligra athafna fyrir þetta lif, svo vinnur hinn þó miklu framar til dára nafns, sem forsmáir Ritníngarinnar ljós, sokum sinnar skynsemi og stendur á því, ad hún edur hennar ljós nægi sér einskostar til þeirra athafna, er gjøra skulu hann andliga og eilífliga farsælann. Og fyrir þá skuld hefur Gud géfid oss þetta tvøfalda ljós, bædi í náttúrunnar og nádarinnar ríki, ad hid jardneska ljós í hvørutveggju ríkjunum, var ónógt til ad vísa mannkyninu veg til sannrar og eiginligrar velfernunar, hvar af flýtur, ad einginn réttur skynsemdar ljóssins rækjari forsmáir Ritníngarinnar ljós, og einginn sannur Ritníngarinnar ljóss elskari, skynseminnar. Nú eins og þad tvennslags ljós í náttúrinni, bædi þad jardneska og himneska sýnist í fyrstu skøpun ad hafa verid svo sem í einni einskonar ljóss-materíu sameinad, er uppfyllt hafi án mismunar alla náttúruna, en adskildist sídan, fyrir Guds almættiskrapt, og nam stadar sumpart á himninum í sólarinnar hnetti — þeirri ljóssins adal-

uppsprettu, sem daginn af sér fædir — sumpart á jørdunni nidri, í líkomunum, hvadan þad, fyrir mannliga konst, ásamt eldinum, útleidt verdur, svo geck ogsvo likt til, um þad annad tvennslags ljós, í því andliga ríkinu. Þetta ljós var svo sem sameinad í eitt, í persónu vorra fyrstu foreldra, fyrir syndafallid, svo hin upprunaliga andliga ljósǝmateria var þar, líka sem samþryckt í sínum fyrsta brennipúncti; en undir eins og þaug, vegna syndarinnar fjarlægdust Gudi, dofnadi stórkostliga hjá þeim varmi og glansi ljóss þessa. Þó samt eptirlét þad nockrar menjar síns upprunaliga bjartleika í þeirra náttúru; ágiætar ad vísu, þad þær taka, en alls ecki nógar til, einskostar ad vísa manneskjunum á þá algjørstu farsældar gøtu, gégnum tímann inn í eilífdina. Þessvegna tilsetti Gud, ad eitt yfirnáttúrligt ljós skyldi oss upprenna á þeim andliga himni nádarinnar, er, ásamt med því litla ljósi náttúru vorrar, réttbrúkudu, skyldi þéna til þess, ad vísa oss óhultann veg til sælufulltrar eilífdar. En svo sem morgunrodinn geingur á undan þeirri fullkomnu dags- og sólar-uppkomu, svo upprann ecki heldur þessi nádardagur í skjærasta ljóma allt í einu, heldur fór smávaxandi og byrtandi eins og deiginum háttad er í náttúrunnar ríki. Morgunrodi dags þessa sást fyrst í því fyrsta fyrirheiti, sem gésid var vorum fyrstu foreldrum, eptir syndafallid. Svo vóx þessi blessada dags byrta smámsaman fram eptir oldunum, uns sá algjørsi adaldagur framskein í tímans uppfyllíngu, þá sú himneska Réttlætis Sól stód rétt sem í hádeigis stad. Nú er þad hvorutveggja, ad sú náttúrliga Sól gjørir ecki undireins dag á øllum jardar hnettinum, þar í sumum hálfum heimsins gétur verid nótt, medan annarstadar er dagur; annarstadar kvøld

medan annarstađar er morgun; og líka eru ecki allir dagar eins bjartir, þar sem eptir náttúrunnar hlaupi mætti þó fullkomin dags byrta vera; því opt gjörir þyckt lopt — hverju stundum fylgja hríđir og hretvidri — byrtu dagsins svo dauka, ad litlu betra verdur, fyrir vegfaranda, ad rata um veroldina, enn þó kvoldvockur væri. Svo geingur þad líka til á sama hátt; hvad þann andliga heim snertir. Aldrei hefur ennnú hreinna trúarbragda ljós undir eins skinid um alla heims bygdina, heldur hefur opt verid rétt svarta nótt heidindóms og vantrúar í ødrum løndum, þegar í ødrum skinid hefur þad klára ljós Evangelii; já — og jafnvel ad þaug lønd sumhver, í hverjum í fyrstu ljómadi skiær dagur Jesú trúarbragda — svo sem voru mørg lønd í austur og sudur hálfum heimsins — hafa sídan aptur yfir skyggst af hrædiligum myrkrum afgudadyrdkunar og Mahómets villu; en aptur í þeirra stad ønnur lønd, í hverjum afgudadýrkunar- og heidindóms-svartnætti drottnudu — til dæmis: í þessum Nordurløndum — hefur upprunnid klár dagur réttrar Guds þeckingar, fyrir Evangelii predikun. En ecki hafa þó minni brøgd verid ad því í heiminum, med hversu misjøfnum bjartleika, ad sannleikans Sól hefur feingid ad skýna í þeim løndum, hvar hún þó, eptir náttúru játningarinnar, hefur átt ad vera geingin upp yfir þeckingarinnar sjóndeildar hríng, þar ýmist hafa villalærdómar og mannasetníngar, — líkir þyckrum skýum og þoku-bólstrum — samandreigid sig á Guds andliga kyrkja-himni, og byrgt fyrir sannleikans Sólu, ellegar ad stormvindar og hrídir offókna hafa dunad yfir játendur kristiligrar trúar, og fyrirmunad þeim ad njóta í nádum hennar sæta og sálu lífgandi ljóss og varma. En þó hefur allra mesta talan verid

af þeim, sem, midt í christindómsins skjæra dagsljóma, anad hafa athugalausir áfram, á veginum til eilífdarinnar; ecki gjætandi þess, ad þad er einganveiginn nóg fyrir einn ferdamann, sem reisir um torfærusamann og villugötum þakinn veg, ad ferdast um dag, en ecki nóttu, heldur hlýtur hann eingu sídur ad gjæta ad sér, og hafa — eins og Salómon seigir — augun í höfdínu; því annars kann hann, eins og blindur edur næturreisandi, ad rata í háskaligustu torfærur og jafnvel tapa lífi sínu. Og, fyrir þessa skuld, verda þeir máské ecki allir luckuligri, sem reisa áfram til eilífdarinnar í dagsbyrtu Evangelii, enn hinir, sem annadhvert í hálfbjörtu, edur nærri því í myrkri, þeirri reisu áfram halda; af því hinir treysta allt uppá dagsbyrtuna, svo sem ecki gjætu þeir villt farid, hvorsu ógjætiliga og athugalaust sem þeir áfram ana; hvors vegna þad er ecki ómoguligt, ad hinir, sem minni byrtu hafa á reisunni gjæti þess betur ad sér og fari vareygdarligar, svo þeirra reisulok verdi nockud luckaligri enn hinna. Eingu ad sídur er þó þess meiri háski á ferdum, ef bædi er dimmvidri, og reisandinn þar á ofan athugalítill um ad þræda þann rétta veg og sneida hjá villigötum; og svo geingur þad þó optast til á andligann hátt, ad villulærdómar og vondt líferni fylgjast ad; því ef sannleikurinn hreinn og einskjær orkar ei alltíd ad betra manneskjunnar hjartalag og líferni, mun hann því sídur megna þad, nær hann blandadur er og spilltur af villulærdóma súrdeigi. Samt er mikiu stærri von til þess, ad villtur ferdamadur nái aptur réttum veigi, ef hann annars vill á hann snúa, sé heidbjartur dagur og sólskin, enn dimmvidri edur næturmyrkur.

Þessvegna er þad ei allítil velgjord lifanda Guds,

nær hann gèfur þeim andliga heimi, ecki einúngis dag christiligra trúarbragda, heldur lætur þann sama heidríkann og bjartann vera, svo villulærdóma og vantrúar ský byrgi ecki þá himnesku sannleikans sólu fyrir augum manna, sem allir eru á þeirri mikilvægu reisu til eilífdarinnar.

En fjandi kyns vors — hvørn Ritníngin nefnir djøful og andskota — hefur, um allar heims aldir kappkostad ad formyrkva himin christiligrar kyrkju med þoku og skýum ýmisligra villulærdóma, og allrahanda følskum og afvegaleidandi loptsjónum; svo menn opt og tídum hafa ecki gètad — þó dagur hafi átt ad heita — notid hinnar sønnu og einskjæru birtu, af þeirri himnesku sannleiks sólu.

Því strags eptir þad þessi Sól hafdi, sem í hádegis stad, uppljómad heiminn, á Jesú holdsvistar døgum, tók hèr og þar á kyrkjunnar himni, smámsaman ad draga upp skýflóka ýmsra villu- og vantrúar-kènnínga, sem meira edur minna skygdu á þá sønnu sannleikans sólu, og ollu því, ad margar manneskjur villtust hrædiliga út af þeim rètta lífsins veigi. Þó vard þessi skýuppdráttur á kyrkjunnar himni, hvørki eins almenniligur, nè eins þykkur og svartur fyrst fram eptir øldunum, eptir Christi daga, sem hann sídar meir vard; því bædi sást ádur í heidann himin Guds nádar, vída hvar í milli; og Guds andi — eins og vindurinn — dreif suma skýflókana hreint í burtu, edur þynnti þá svo suma, ad þeir sídur byrgt gátu fyrir geisla sannleikans enn ella. En þegar stundir framlidu, einkum þegar makt hins rómversku biskups — er lèt kalla sig Páfa, edur andligann fødur í Christs kyrkju — tók ad vaxa, undireins uxu og svo villulærdóma myrkur svo skèlfiliga, ad eptir

þá 10da öldu varð allur Guðs kyrkju himin svo þakinn af þykkvustu villudóma og hjátrúar skýum, að þar varð ecki leingur nockurt það ríki eður land til, hér í Norðurhálfunni, og jafnvel ecki á öllum jarðarhnettinum, hvar ómeingud sann-evangelisk bibliutrúarbrögð væru gildandi, heldur allstaðar blöndud með hégiljufullum manna setníngum, og dárligustu hjátrúar draumórum. Að vísu voru einstaka menn og jafnvel flockar í bland, sem ángrudust yfir þessu fordæmanliga myrkri, og ósktudu af hjarta til Guðs — já verkudu sjálfir til, hvað þeir gátu — að þessi mökkvi mætti sundurdreifast og sannleikans Sól skýna óhindrud fyrir mannanna augum; en þessi þeirra heilaga ósk og vidleitni — svo lofsverd og gudi þóknanlig sem hún í sjálfri sér var — fékk þó ecki af stað komid neinni alþýdligri og yfirhönd takandi uppbyrtíngu í Christi kyrkju, uns sá, af Gudi þar til áqvardadi tími kominn var, sem skédi á fyrra parti þeirrar sextándu aldur frá Christi fædíngu; eptir það þessi villudimma hafdi yfirskyggt allann kyrkjunnar himin, ýmist meira edur minna myrkri í 6 til 7 hundrud ára, edur jafnvel leingur. Það verkfæri, sem Gud til þessa stóra verks brúkadi — einkum í Þýdskalandi — var ásamt ödrum, einn fátækur múnkur, Marteinn Luther ad nafni, hvorn hann útbjó med merkiligustu svo vel náttúru sem nádar-gáfum, er til þess framqvæmdar naudsýnligastar vóru, nefniliga: med rótgróinni gudrækni, hreinskilnustu einurd, og óveikjanligu stödugglyndi. Þessi útvaldi Guds þjón tók opinberliga ad vitna og predika móti þeim villulærdómum, er svo hrædiliga undirþryckt og afbakad höfdu þann himneska sannleika, og leidt margar þúsundir sálna á veg glötunarinnar. Þó ecki ad vísu, vegna þessa manns, og annara hans mederf-

idara, lærdóms og framkvæmdarsemu atburda, heldur vegna þess, ad sá af Guds ákvardadi sigurtími Sannleikans kominn var, féck þetta fyrirtæki svo luckuligann framgáng, ad ecki einasta vissar persónur og vissir stadir, (eins og fyrir adrar ádur uppkomnar páfadómsins mótpredikanir skéd hafdi), heldur heil furstadæmi og kóngsríki, kostudu af sér, hvad eptir annad, oki þeirrar rómverska kyrkju, sem svo þvíngunarfullt var fyrir mannanna bædi líkamligt og andligt frelsi. Einkanliga urdu þaug nordlægu kóngsríki þessarar heimshálfu, sem vér búum í, svo luckulig, ad taka á móti þessum dýrmæta frelsis lærdómi, og lögleida hann medal sinna innbyggjara, hvors vér notid hofum þessa lands innbúendur, ásamt ødrum þessa danska kóngsríkis undirsátum. Teljum vér nú rétt 300 ára lidin, á þessum deigi, sídan sá sæli Lúther hóf þessa blessudu trúarbragda endurbót; og kunnum vér Gudi vorum og frelsara aldrei fyrir þá lucku ad fullþacka, ad vér, í ádur søgdu tilliti, erum frá myrkrunum til ljóssins komnir.

O! ad vér breyttum þá, sem ljóssins børnum réttliga hæfir! I minníngu þessarar dýrmætu trúarbragda hreinsunar, hafa því fósturfedur christiligrar kyrkju, nefniliga: vorir allranádugustu konúngar, bodid ad hátíd ein haldast skyldi, á 100asta hvørju ári til ad vegsama Gud fyrir þá nád, ad hann leiddi, svo vel forfedur vora, sem oss, til þeirrar réttu þeckingar sjálfs sín og þess hann sendi Jesú Christs, svo vér kunnum nú, eptir Evangelio, ad dýrdka Gud í anda og sannleika, og svo hluttakandi verda í øllum þeim gjædum og velgjørníngum, sem Jesús hefur oss til handa keypt, med sinni pínu og dauda, ef vér þad ecki vis-

vitandi af oss brjóstum. Nú er það í 3ja sinni, sem þessi júbil-hátid er haldiu, á þessum ársdeigi, í sögdu tilliti, og ber oss því af ollu hjarta, med einum huga, ad vegsama Gud, fyrir þa náð, ad hann ecki einúngis lofar oss ad lifa til ad halda hana, heldur og ad njóta hindrunarlaust þeirra herligheita, sem hinn hreini Evangelii lærdómur med sér færir; einkum þar vér hofum hans himneska uppsprettu svo ríkugliga útbreidda vor ámedal, nefniliga þá heil. Ritníngu; svo hver einn getur haft í sínu húsi rétt sem Sólina sjálfa, og fær því í hennar ljósi ratad, ef hann vill, þá réttu gotu til eilifs lifs; og þarf ecki ad láta neinn villa sig, frá þeim sanna lifsins og ljóssins veigi, ef hann ecki sjálfur elskar framar myrkrid enn ljósid. Þessi Evangelii dýrmætu herligheit fáum vér, minir vinir! enn gloggligar ad sjá, þegar vér, hver med odrum, tokum oss fyrir hendur nákvæma yfirvegan þeirra lifsins orda, sem í vorum upplesna texta innibindast, í hverjum ad Jesús Christur — hofundur og herra vorra trúarbragda — setur sig fyrir sjónir, undir þeim háleitliga fagra titli, ad hann kallar sig heimsins ljós, og bendir til þess, hvad gott þeir allir af því hafi, sem þessu ljósi trúliga fylgi. Hann sjálfur upplýsi þá skilníng vorn, med sínum anda, svo vér réttiliga skiljum meiníngu hans orda; en einkum helgi vorn vilja, svo vér þá fúsliga, og af alúd, fylgjum þeirra réttu meiníngu í hjartalagi og lifnadi, og verdum svo fyrir það eilifliga lucksuligir!

A m e n!

## Textans Utskýring.

§ 1. Þó eg ádur í inngángi máls míns, hafi samlíkt heil. Ritníngu vid Sólina, edur uppsprettu

þeſs andlíga ljóſs, ſem til er í heiminum, vita ſamt allir, að þetta á ecki að ſkiljaſt, að því leiti hún er bók ein, gjörð af mannahöndum, ſamanſtandandi af pappír, merktum með bókſtöfum og atkvæðum, heldur einaſta í tilliti þeſs guddómliga lærdóms, ſem hún inniheldur. En hvör er þá höfuðlærdómur hennar? Hvört mun hans innihald? Mun það vera einaſta það, að kénna mönnum að dýrdka Gud með góðum ſiðum og dygðugu líferni, ſvo menn verði útvortis ſiðprúðir og ráðvandir, og yfirhöfuð góðir og nytſamir borgarar, í þeſsu jarðneſka manna ſamlífi? ſjærri því! Annars kynni það verða umtalsmál: hvört hún ætti þennann ærutitil öllu heldur, enn ſumar ſiðalærdóms bækur vitruſtu heiðingja?

Ney, heilög Ritníng er ecki géfin oſs til reglubókar, að eins fyrir þetta líf, eður ſvo vér gétum orðið lucduligir meðan vér dveljum hér á jörðunni, heldur ſem himneſk leiðarſtjarna yfir haf veraldarinnar, til vors eilífa og ſanna föðurlands; því ſvo ſem góðir ſiðir og borgaraligar dygðir eru, eptir hennar kénníngu, einganveiginn nægjandi til að géfa manni rétt til himneſks borgaraſkapar, heldur þarf til þeſs nockuð annað, þúſund edallegra og fullkomnara, þeſsvegna er það ſama og ſvo það, ſem Ritníngin allein, og eingin önnur bók, eður víſindarit undir ſólunni, kénnir oſs að þeckja; og þetta er ſá lærdómur hennar, ſem höndlar um Jeſúm Chriſt og ſelgir: „að Gud hafi ſendt hann í heiminn, „ecki að eins til að kénna mönnum dygðir og „mannkoſti, (því af ſlíkum kénníngum var heimurinn „ecki ſvo ſnauður áður enn hann kom), heldur til „þeſs, að allir ſem á hann trúa (trúa ecki einaſta „orðum hans ſvo ſem sönnum, heldur trúa á hann „ſjálfann) ſem Gud í mannligu holdi auglýſtann;

„trúa á hann, sem frelsara mannkynsins; því „likann frelsara, er med sínum daudafridþægt „hafi mennina vid Gud, svo þeir einúngis fyrir „þessa hans fridþægíngar offurs skuld, (en ecki „fyrir neinna sinna dygda og dugnadar sakir) géti ordid „sínum skapara þócknanligir; ad allir þessir „(seigi eg) skuli verda eilífliga sáluhólpnir."

Þessi lærdómur er hofudlærdómur Ritníngarinnar, hennar adalaugnamid, hennar kjarni og kraptur; af honum einum hefur hún, yfir oll vísindi fram, sinn stóra ypparligleika og gyldi. Fyrir hans skuld einasta vinnur hún til ad heita sú betsta, sú dýrmætasta, sú heilagasta, sú naudsýnligasta bók, sem heimurinn á. Vegna hans kann hún í háleitustu merkíngu, ad kallast: Guds ord, bók lífsins, leidarstjarna til himinsins, og Sól þeirrar christiligu andligu veraldar. Þessi ádur sagdi lærdómur er einkunnar lærdómur vorra lúthersku trúarbragda; því hann, nefniliga lærdómur þessi, var þad, sem sá Gudsmadur Lúther, og adrir hans mederfidarar, framkolludu aptur úr myrkrum Páfadómsins, í hverjum hann var yfirskygdur ordinn af svortustu villulærdóma þoku; þar ad honum burturýmdum, eru eingin christilig trúarbrogd til leingur, einginn sonn huggun fyrir syndugar manneskjur í þessu lífi, og eingin sáluhjálpar von í því eptirkomanda.

§. 2. Af þessu er þá audsjed, ad Ritníngin hefur allann sinn ypparligleika af Jesú Christo, eins og líkaminn af Sálunni, svo ad Jesús (ad eg svo til orda taki) er sál Ritníngarinnar, sem gjorir þad ad verkum, ad hún er eitt lifandi ord og lífkroptugt med ollum þeim, sem því hjá sér rúm géfa; því sagdi hann sjálfur: „ad sín ord þaug væru andi og þaug

vœru líf." Allt hvad Ritníngin seigir oss um almætti og vísdóm Guds í skopunarverkinu, um heilagleika hans og réttlæti í logmálinu, er útaf fyrir sig, á vissann hátt, einslags daudt, já deydandi ord fyrir oss, inn til þess þad hneigist til ad sýna hans gjœdsku og miskunsemi, út af Evangelió, um sendíngu hans sonar mannkyninu til endurlausnar; þá fyrst líka sem særist lífid í lærdóm þennann, og med lærdóminum inní mannesskjunnar sálu. En þetta lífganda líf í ordinu, er þá undir eins ljós munnanna, eins og Jóhannes vitnar, og þetta ljós skýn í myrkruuum og myrkurinn fá þad ecki hondlad. Svo er þá ad álíta Ritnínguna sem einslags himneska ljóss-lykt, edur skridbittu, (eins og David og Salómon hana nefna), í hvorri, og gégnum hvorja, geitslar þess veruliga ljóss frá Gudi, Jesú Christi, lýsa, og fyrir hvorrar leidarvísir einúngis, ad menn rata kunna veginn til eilífs lífs. Þad var um vissann tíma, ad þetta ljós var sjálft persónuliga, sýnillgt og nálægt medal mannanna; en nú er þad nálægt oss og skýn fyrir oss í ordinu og sacramentunum. Þetta er nú sá hinn sami, sem Malachias umspádi, og nefnir Sólu réttlætisins, hvored upprenna muni þeim, sem óttast drottinn, og undir hvorrar vængjum hann seigir ad hjálprædid sé; þad er: hvorrar geitslar ad útbreida blessun, fognud og farsæld medal manna; allra ad sonnu, en þó einkum þeirra, hvorjir ad stadnæmast í hennar ljósi, og elska þad framar enn myrkurin.

§. 3. En framar er þad athugaverdt í vorum texta, ad Jesús gésur sjálfur sjálfum sér þennann hinn fagra titil, ad hann kallar sig heimsins ljós.

Þetta var ecki nýtt, ad Jesús gjæfi sér þvílíka

ágjæta og hátignarliga titla; til dæmis kalladi hann sig: lífsins braud; þann góda hyrdir; upprisuna og lífid; veginn, sannleikann og lífid og þess háttar; og einginn af öllum spámennum, postulum og lærifedrum, titludu sjálfa sig á þennann þátt, nema Jesús Christur alleinn; enda hefdi þad og mátt álítast sjálfshrós í allra annara munni enn hans, sem var sjálfur sannleikurinn; og þessvegna báru Gydíngar hann þeirri sök, ad hann gjördi sig Gudi jafnann, sem og svo var satt, því slíkir titlar kunnu eingum ad tilleggjast, nema guddómligri persóna; — en ad hann væri þad, sannadi hann med þeim guddómligu kraptaverkum, er hann framdi; og því sagdi hann vid gydínga: „þaug verk er eg gjöri, í míns födurs nafni, bera vitni af mér." Því þar sem guddómligt almætti útkrafdist til ad gjöra kraptaverkin, en einginn gétur þann eiginligleika haft, nema Gud einn, þessvegna hlaut þá Jesús sem þennann eiginligleika, eins og Gud sjálfur, hafdi, ad vera gudómlig persóna. Nú ef einhver vildi seigja: postular Jesú gjördu og svo kraptaverk sem hann, voru þeir þá ecki guddómligar persónur, sem Jesús? Fjærri því! Eda er þad ecki sitt hvad, ad gjöra kraptaverk af eiginn mætti edur af annarligum; ad vera sem verkfæri til þeirra framkvæmdar edur verkmeistari?

Postularnir gjördu kraptaverk sín í nafni Jesú, hann í sínu eigin og födursins nafni; hann gjördi þaug med skipandi mindugleika, þeir med tilbidjandi audmykt; þeir vildu aldrei nockurt lof edur þackir þyggja, fyrir sín kraptaverk, hann medtók hvörutveggja; þeir gátu ecki gjördt kraptaverk alltíd þegar þeir vildu, Jesús gat þad optar, enn hann vildi. Hvar af flýtur, ad ecki

einúngis sjálfs Jesú kraptaverk, heldur og svo þaug er postular hans, í hans nafni gjørdu, sönnudu jafnt hvorutveggi: ad Jesús væri „heimsins ljós" í hátignarligasta skilníngi; það er ad skilja: ad einginn kynni ad kallast þessum hátignarligasta titli, í sama og eins eig inligu tilliti, sem sjálfur hann, þar hann væri sonn guddómlig persóna, en postular hans væru ad eins þessa ljóss þénarar og útbreidendur. Og — Gudi sé lof fyrir það! ad geislarnir af þessu blessada ljósi, eru einnig til vor útbreiddir, sem búum á þessum útkjálka heimsins; svo þó vér, eptir náttúrunar hlaupi, høfum leingra skammdeigi enn adrar þjódir, þurfum vér þó ecki ad hafa það, í tilliti þess andliga, þar þeirrar himnesku sannleiks Sólar jafndægra-hríngur-geingur sem rétt yfir vorum høfdum, í hvørrar ljósi vér sjáum ljósid; og meigum því teljast ein af þeim skuggalausu þjódum á jardar-hnettinum, hvar Sólin skýn jafnt til hægri sem vinstri handar, undir eins. Gudi sé lof fyrir vora lucku! ó ad vér vissum og vildum oss hana réttiliga í nyt færa! þá mundum vér verda ljóssins børn, til heidurs því himneska heimsins ljósi Jesú, og eiga, fyrir hans nád, von til arfskiptis med þeim heilogu í ljósinu, eilífliga.

§. 4. En af hvørjum sérligum ástødum, ad frelsarinn tilleggi sér sjálfur þennann yfirmáta dýrdliga titil, ad kalla sig heimsins ljós, má oss øllum, sem þeckjum hans persónu og embættis heilagleika, audskilid vera. Heimsins ljós kann því frelsarinn kallast, í tilliti sinnur persónu, síns embættis, síns lifnadar og sinna kenninga. a) Fyrst í tilliti sinnar persónu, er hann ljómi fødursins dýrdar, eins og Páll postuli seigir; svo eins og Sólin þeckist af ljómanum, svo

fadirinn af syninum, eins og Sólin er vor Sól, fyrir ljómans skuld, svo er Gud vor fadir fyrir sonarins sakir, eins og Sólin væri oss til einkis gagns né gledi ef hún lýsti ecki, svo hefdum vér af Gudi einga farsæld né sognud, ef hann hefdi ecki auglýst oss sinn miskunarljóma í syninum. Þar fyrir, svo sem Gud kallast í Ritníngunni ljós, ad hann búi í ljósinu, sé skrýddur ljósinu, svo kallast Jesús í þeirri niceanisku trúarjátníngu: Gud af Gudi, ljós af ljósi; og verdur honum því samlikt vid ljóssins Element, ad þad er hin fegursta, smásmugligasta, yndisligasta og jafnvel gagnligasta tegund í náttúrunni. Hvar fyrir honum kann eckert kostuligra, eckert verdugra samlíkíngar nafn ad tilleggjast, enn þetta. b) Þarnærst kann Jesús ad kallast ljós — ja heimsins ljós, sérdeilisliga, í tilliti sins Messianska embættis; því, hvort var hans erindi annad híngad á jordina, enn ad verda mannkyninu ad andligri, ljómandi og lýsandi Sólu, í gégnum þessa dimmu og hættusomu heimsins eydimorku, til þess eilífa fyrirheitna dýrdarinnar fodurlands? Því seigir Jehóva siálfur um sinn Son, fyrir spámannsins munn: „Eg „hefi sett þig til ljóss heidinna þjóda, ad þú „skyldir vera hjálpræði, fyrir mína hond, allt „til veraldarinnar enda;" hvar fyrir þad heitir og svo þannig: ad þad fólk, sem Jesús opinberadist á medal, á sinum holdsvistar dogum, hafi sied — þar sem þad sá hann — eitt mikid ljós. Og án þess þetta himneska guddómliga ljós hefdi heiminum géfist, mundi allt Adams kyn hafa í eilífu myrkri og daudans skugga setid. Syndin hafdi verkad óttaligt svartnætti í allri veroldunni, og í þessu myrkri æddu umkríng þeir helvítisku mordvargar, daudi og diofull, sem ætludu sér

ásamt ad uppsvelgja allt Adamskyn; er midt í þessu upprann sú himneska réttlætis Sól, Jesús Christur, er med sínum ljóma, ecki ad eins sundurdreifdi þessum skélfiligu synda myrkrum, heldur og á flótta rak og yfirbugadi svo þá ádur áminnstu óvætti, dauda og djöful, ad sá fyrri vard svo gott sem drepinn, en sá sídari tapadi öllum sínum herthyum, á hver hann treysti.

Þetta eigum vér honum, því blessada heimsins ljósi Jesú Christo, einúngis ad þacka. Lofad sé hans nafn ad eilífu!

c) í þridja lagi kann Jesús mikid vel ad kallast heimsins ljós í tilliti síns heilaga lifnadar. Því svo sem í ljósinu finnst ecki, né sjest einn einasti blettur edur skuggi, svo var Jesú allraheilagasta líferni aldeilis flecklaust, fyrir utan nockurn allraminsta anmarka edur yfirsjónar lýti, svo hann þordi opinberliga ad gánga fram og seigja vid sína verstu hatursmenn: „hver af ydur gétur sannad uppá mig nockra synd?"

Því seigir Páll: „ad Jesús hafi verid biskup, heilagur, saklaus og syndugum fráskilinn!" og Petur seigir: „ad hann — svo sem þad skjærasta dygda munstur — hafi gefid oss eptirdæmi, ad vér féta skyldum í hans fótspor." Já — eins og Jesú guddómliga sála var gégnumþreyngd af því einskjærasta heileigleikans ljósi, svo skína og svo þess sama himneska ljós geitslar fram í gégnum öll hans ord og athafnir, medan hann hér umgéckst. Því hversu kostgjæfinn var Jesús, yfir allt fram, ad leita síns himneska födurs dýrdar og mannanna sáluhjálpar! Öll hans ástundan, allir hans atburdir, hans ord og verk hnigu ad þessum tveimur adal-augnamidum; þaug bædi lágu sem í heilagri jafnvigt á hans guddómliga hjarta.

Og hafi Jesús þókst hafa orsök til ad kalla Jóhannes skýrara — sem þó var af náttúrunni syndugur madur — ad kalla hann, segi eg, — svo vel vegna hans lastvara lifnadar, sem uppbyggiligustu kénnínga — „brennanda og skýnanda ljós" — hvílíka orsök hösum vér, þá ecki til ad kalla Jesúm. — sem af eingri synd vissi — eitt ljós; já þad ljósskjærasta ljós af öllum ljósum, bædi í náttúrunnar og nádarinnar ríkjum?

O! Gud gjæsi vér værum eins fúsir eptir þessu ljósi ad gánga, eins og þess fegurdar ljómi er í drottins augum dæiligur, í heilagra eíngla augum hátignarligur, og í allra sanntrúadra augum yndis- og uppbyggiligur! d) Loksins kann Jesús í tilliti kénnínga sinna ad kallast heimsins ljós. En hvort var þá Jesú kénnínga Innihald? Þad sama, sem eg fyrir skémstu sagdi, ad væri hösud innihald Ritníngarinnar, nefniliga: ecki ad eins þad, hvörsu vér skicka ættum sidferdi voru útvortis; til dæmis: vera réttvísir í allri höndlun hvor vid annann, góðlyndir í dagligri umgeingni, vyrdíngarfullir fyrir Gudi, vandlátir vegna hans dýrdar, lítillatir í upphefdinni, þolinmódir í mótlætinu, sáttfúsir vid mótgjördamenn, godgjördasamir vid naudlídandi og stadfastir í allra dygda æfíngu — ecki einasta þetta (svo ágjætt sem þad er og frá christindómsins sonnu náttúru eldúngis óadskiljanligt) var innihald Jesú kénnínga, heldur eitt annad þúsund ædra og háleitara, og án hvörs allar hinar adrar fögru dygdir verda nyt fyrir utan kjarna og ský fyrir utan regn; þad var, þad, ad hann kéndi þann stóra sannleika: „ad hann sjálfur væri í heiminn kominn til „ad láta sitt líf til fullkomins lausnar-gjalds „fyrir mennina, svo ad hvör sem á hann trydi

„(Það er; héldi það fyrir satt og reiddi sig þar „uppá, að Jesús hefði, með sinni pínu og dauða, „borgað fyrir allar veraldarinnar syndir), og „hvör sem út af þessu trausti yrði svo upp„tendraður af elsku til hans, fyrir þennann vel„gjörning, að hann af fremsta mætti kappkost„aði að hlýða hans siðareglum, og breyta eptir „hans dæmi, sá sami — hvör heldst sem hann „væri — skyldi eilífliga sáluhólpinn verða." Það fyrnefnda atriði Jesú kénninga, nefniliga dygðanna lærdóm, höfðu þær sameiginligann öðrum skynsamligum siðgjæða kénningum upplýstra heimspekinga (jafnvel þó siðalærdómur Jesú væri lángt ágjætari og óblandaðri enn þeirra); en hið síðara atriðið, áhrærandi Jesú friðþægíngar dauða vegna mannanna, er stakligur eigindómur og einkénni Jesú lærdóms (sem aldeilis dulinn var fyrir allra heimspekinga og vitringa augum), og fyrir hvörs atriðis skuld að hans lærdómur hefur öðlast þetta hátíðliga og upphafða nafn að kallast Evangelíum, já eilíft Evangelíum, eður eilífliga glediligur boðskapur öllum syndurum. Það fyrra lærdóms atriðið var til engra nota eður gagns mannkyninu, ef það síðara tilvantaði; af þessu hefur hitt allt sitt álit og gyldi í Guðs augum. Því eins og trúin er án verkanna dauð, allt eins eru verkin án trúarinnar; án hennar eru þaug, hvörsu kostulig sem sýnast, eckert annað enn skýnandi leistir, svikull draumur, forgyllt, falskt mynt af fölskum málmi, sætt eitur, hórufarsi, já afguða dýrkan. Hefði Jesús ecki kénnt þann síðari lærdóminn, um sína endurlausn, hefði hann valla unnið til að heita heimsins ljós, öllu framar enn aðrir upplýstir heimspekingar, til-

dæmis: Socrates, Plato, Aristoteles og fleiri, og þá hefdi mannkynid mátt eingu ad sídur deya í sínum syndum, og hrapa úr andligum ránglætis myrkrum, inní eilíf fordæmíngar myrkur.

En lofadur veri Gud! Jesús Christur er, í ǫllu tilliti, sannkallad og sannreyndt heimsins ljós; hann er svo gott ljós heimsins, sem sjálfur Gud, ljósanna fadir; já, án hans hefdi allt þad ljós, sem af ǫdrum Guds eiginligleikum leiptrar, svo sem af hans almætti, vísdómi, heilagleika og réttlæti, ordid oss ecki einúngis aldeilis óadgeingiligt ljós, heldur virkiliga fortærandi eldur ad eilífu. En þegar þetta Guds eiginligleika ljós lýsir, sem í gégnum Jesú persónu, til mannanna, tapar þad ǫllum sínum skélfandi og fordæmandi krapti, og verdur þá svo mildt, blídt, gledjandi og endurnærandi sálir mannanna, ad þær uppfyllast allar af Guds kjærleiks varma, bædi frá Gudi og til Guds, ad í manneskjunnar hjarta upprennur ljós-skjær nádar-dagur, sem bodar henni gledifullann, sólskjærann dýrdar-dag eilífliga.

§. 5. Framar seigir frelsarinn í textanum, eptir þad hann búinn er ad lýsa sér sem heimsins ljósi, á þennann hátt: „hvor hann fylgir mér eptir, hann mun eigi gánga í myrkrunum." Ad fylgja Jesú eptir, innibindur í sér þetta þrennt: fyrst ad trúa á hann; þar næst ad hlýda honum; og í þridja lagi ad breyta eptir honum. Ad þetta ord: „ad fylgja Jesú eptir," innibindi og svo í sér þad: ad trúa á hann, flýtur af sjálfri hlutarins náttúru. Því þar sem Jesús var ecki ad eins eintómur kénnemadur og sidalærari, ecki adeins einúngis konúngur og leggjafari, heldur þar á ofan sannur Gud og

heimsins frelsari, þá hlýtur sá endiliga, sem vill eptirfylgja honum, sem heimsins ljósi, að inna honum með eptirfylgdinni þann heiður, sem sambýður hans hátign. Já hann hlýtur að inna honum þvílíkann heiður, ekki einasta vegna hans tignar, heldur og vegna sinna eigin gagnsmuna, þar hann getur eingin rétt not haft af hans ljósi, — undir hvörju skilst svo vel hans friðþægingar sem dygða lærdómur — nema hann með lifandi trú, líka sem inndrekki í sig hans guðdómliga ljóma, varma, líf og krapt.

Já trúin hlýtur að innfæra sjálf þetta ljós í mannsins sálu, svo það sameinist sálunni, uppfylli hana og gégnumþreyngi, og þá heitir manneskjan fyrst að vera orðin ljós í drottni. En geitslarnir af þessu innvortis ljósi, sem sálin inndrukkið hefur, brióta sig þá út í allskonar guðligu líferni; og tekur hún þá, eptir Jesú boði, til að láta sitt ljós lýsa fyrir mönnum, svo þeir sjái hennar ljósfagra dygða athæfi, og uppvekjist þaraf bæði til að vegsama Guð og frelsarann, fyrir þann dygða-blóma, með hvörjum hann hefur þann trúaða prýdt, og sjálfir upporfast til einslags kappgyrni, að ná hinni sömu fegurð í Guðs og manna augum. Þannig flýtur nú af trúnni hlýðnin í eptirfylgd Jesú, eins og geislar af Sólu, og géta aldrei orðið hana viðskila.

Því svo ómoguligt sem það er, að varmi og ljómi fylgi ekki ljósinu meðan það lifandi er, svo er allt eins ómoguligt að hlyðnin fylgt ekki trúnni, meðan trúin sjálf lifir. Kalla eg þá trúna þá innvortis eptirfylgd Jesú, en hlyðnina í verkunum þá útvortis eptirfylgd hans; sem, eins og sál og líkami, fylgjast æfinliga að, og eins og sálar og líkama aðskilnaður ollir

náttúrligum dauda mannsins, svo flýtur af adskilnadi trúarinnar innvortis og hlýdninnar útvortis, mannsins andligur daudi. Sú innvortis eptirfylgd Jesú fyrir trúna, fædir því af sér, fyrir Guds augliti, þær sonnu innvortis dygdir, í hverjum ad vera christinndóms sins innifalin er. Til dæmis: fyrst kjærleikann, med hverjum hún umfadmar Gud í Jesú persónu, eins hjartanliga sem barnid, er vefur armana utan um háls sinnar ástriku og hjúkrunarsomu módur. Þar næst vonina, med hvorrar augum trúud sála mænir uppá Guds miskunar hendur fyrir Jesúm Christ; og þá lítur Gud til hennar aptur, med hýrásta nádar tilliti, og fullvissar hana um sina miskun og trúfesti. Í þridja máta gyrnd og eptirlaungun til ad njóta hans nádar, hver gyrnd af sér fædir húngur og þorsta eptir réttlætinu, svo sálina þyrstir þá í Guds miskunsemdabrunn, sem hjortinn eptir fersku vatni. Og loksins fædir trúin af sér heilagann ásetning og áform ad gjora Guds vilja, svo sálin verdur þá innvortis full af heil. drift, fýsn og fjori til ad útbreida Jesú dýrd, og efla sinna medmanneskna tímanliga og eilífa farsæld. Þessar eru þær tornæmustu heimugligu dygdir, med hverjum sálin — svo sem útaf fyrir sig — án líkamans adstodar — eptirfylgir heimsins ljósinu Jesú innvortis, og á einbera andliga vísu. En sú útvortis eptirfylgd Jesú fyrir hlýdnina í verkunum, audsýnir sig þá líka eins fyrir mannanna augum, í ýmiskonar útvortis dygdum sem framspretta af ádursogdu, innvortis heilogu, hugarfari; til dæmis: fyrst sjálfs afneitanin; ecki einúngis med dempun þeirra huldu holdligu fýsna og ìysting, heldur og í því, ad synja sér margs þess útvortis eptirlætis, sem adrir mundu

lerfiligt kalla, til ad fá hjarta sitt þess betur tamid og vanid til ad bera Jesú ok og taka uppá sig hans dagliga kross, sem er fast einkénni allra sannra Jesú eptirfylgenda. Þarnæst í réttsýniuni í vidhøndlun vid allar sínar medmanneskjur, sem sá trúadi á nockud vid ad skipta, hvort þeir eiga ad sér mikid edur lítid, já, hvort þeir eru vinir hans edur óvinir. Í þridja lagi í umburdarlyndi og sáttsýsi vid mótgjørdamenn sína, fylgjandi þarí blessudu dæmi síns frelsara, sem bad fyrir sínum fjandmønnum midt í því þeir løgdu á hann þær grimmustu og forsmánarfyllstu píslir. Í fjórda máta í góðgjørdasemi vid Guds volada; því svo sem Jesús sjálfur geck umkríng, gjørdi gott, og grædddi alla, svo kappkostar sá trúadi ad þræda, sem best hann getur, þessi elskuríku fótspor, sem eru svo yndislig fyrir samvitskuna, og svo þócknanlig í Guds augliti. Nú í þessu, sem sagt er, og mørgu ødru fleira er innifalin sú rétta eptirfylgd Jesú Christs, og hana æfa allir þeir sem ljóssins børn eru; því þeir, eins og Jóhannes seigir, gánga í ljósinu, líka sem hann sjálfur í ljósinu er; þessvegna hafa þeir og frid, bædi innvortis í sjálfum sér og innbyrdis hvør vid annann, og blódid Jesú Christi Guds sonar hreinsar þá af øllum þeirra syndum. Þessir eru þeir sem eptirfylgja lambinu, hvørt sem þad fer, hvort heldur uppá Golgatha, til ad gráta þar undir þess kross altari, edur uppá Tabor til ad gledjast þar í anda af skodun Jesú nádargeitsla, sem þar ljóma af hans andliti, fyrir sálarinnar augum, edur uppá Oliveti, til ad fylgja hønum eptir inní hans dýrd. O, sætir eru slíkir Jesú trúlyndir sporrekjendur!

§. 6. Hérá eptir tekur Jesús ad seigja frá því,

í textanum, hvad gott þeir trúudu hafi af sinni eptirfylgd, bædi í tilliti þess, frá hvörju vondu þeir þarvid fríast, og þarnærst þess, hvílík giædi þeir í stadinn ödlast. Pad fyrra, edur hvört þad vonda sé, sem sínir eptirfylgendur fríast frá, géfur hann til kynna med þessum ordum: „hvör hann eptirfylgir mér, mun ei gánga ímyrkrunum." En hvad fyrir myrkur þad séu, sem Jesús hér meinar til, meigum vér nærri géta, ad þad eru andlíg, en ecki náttúrlig myrkur. Fyrir þaug náttúrligu myrkur skil eg þó ecki þaug nátúrligustu, sem eru myrkur næturinnar. Því frá þeim fríast einginn trúadur heldur enn vantrúadur; því eins og Gud lætur sína Sólu upprenna yfir vonda og góda, svo lætur hann sína nóttu yfirskyggja jafnt báda tvo. Pad var ecki nema í Egyptalandi fordum, sem náttúrunnar (þó ecki nátturlig) myrkur sýnduſt umflýa Guds fólk, medan þaug huldu og blindudu hans óvini, sem var þó einslags figúruligt teikn uppá andliga hluti. En nú kalla eg náttúrlig myrkur líka svo fleiri enn náttúrunnar myrkur ein; og í því tilliti meina eg ad mótlæti lífs þessa og daudinn sjálfur meigi myrkur heita.

En frá þessum myrkrum fríast ecki Jesú eptirfylgendur í þessu tilliti framar enn þeir sem Jesúm yfirgéfa; já hvad meira er, ad í eptirfylgd Jesú yfirskyggjast menn stundum af jafnvel eíngu minni mótlætis myrkrum, enn ella, sem þó flýtur ecki af Jesú eptirfylgd í sjálfu sér, — því hvörsu glediligra er þó ecki ad eptirfylgja ljósinu og gánga midt í þess lýsandi ljóma, enn ad ráfa í svartnætti og sjá eckert í kríngum sig edur ofan fyrir fætur sér! — heldur kémur þad af því, ad óvinir ljóssins leitast vid, allt hvad þeir géta,

að gjöra Jesú eptirfylgd hans elskendum torsókta; því þó þeir ecki hindrað géti Jesú náðar ljós frá að lýsa þeim á veiginum, samt bera þeir sig, að leggja í veg fyrir þá allra handa ásteitíngarsteina og torfærur, svo þeir ecki géti haft það vndi af að gánga í ljósinu sem þeir annars mættu. Sama er um þann náttúrliga dauðann að segja, hann yfirfellur jafnt ljóssins sem myrkursins börn, því öllum mönnum er ásett einusinni að deya, og einginn kann frá því, síns réttlætis vegna að fríast.

Nú þó Jesú eptirfylgendur, sem sagt er, fríist ecki frá þessum tvennslags náttúrligu myrkrum, mótlætis og dauðans, meðan þeir lifa í þessum heimi, heldur hljóti, eins og hinir óguðligu, gégnum þaug að gánga, verður þó gégnumgánga sú, þeim, vegna þess að þeir eptirfylgja Jesú, margsinnum auðveldari og ánægjuríkari, enn hinum; því fyrir það, að þeir fylgja því blessaða heimsins ljósi Jesú, hafa þeir opt — og það jafnvel heldst, þegar áðurtalin útvortis myrkur sem svortust eru — hvílíkt yndisligt huggunar ljós í sjér það innra, að þeim finnst, rétt að segja, eckert til þeirra útvortis myrkranna, og eru þessvegna glaðari og ánægðari yfir sínum kjörum —, svo skuggalig sem þaug sýnast í veraldarinnar augum — heldur enn heimsins börn eru, mitt í hinu mesta holdsins eptirlæti. Að eg ecki tali um, hvörsu þessi útvortis myrkur géta þeim í rauninni eingis sannarligs skaða ollað, heldur mesta ábata, eptir það þaug afstaðin eru, því mótlætingar þessara tíma ecki eru verðar þeirrar dýrðar, sem síðar meir mun við oss opinber verða, segir Ritníngin. En nú eru það ecki eiginliga þessháttar náttúrlig myrkur, sem Frelsarinn meinar til, í áminnstum

Textans ordum, í hverjum hann seigir ad sinir eptirfylgendur ei gánga múni. Það eru þá andlig en ecki líkamlig myrkur. En hvor þá svo? Jafnvel þó þaug andligu myrkur séu ecki nema einslags í verunni, meina eg þaug meigi þó á þrefaldann hátt adgreinast; nefniliga í hjátrúar, vantrúar og ránglætis myrkur. Eingin af þessslags myrkrum eru þó nockurn tíma einstök, svo hjá einum séu hjátrúar myrkur, en eingin vantrúar né ránglætis myrkur; hjá ødrum séu vantrúar myrkur, en hvorki hjátrúar né ránglætis; og hjá þeim þridja séu ránglætis myrkur, en alls ecki myrkur hjátrúar né vantrúar. Ney! hvar sem einslags af þessum myrkrum hafa stad, þar eru þaug undir eins øll; jafnvel þó þad sé, ad ein tegund þeirra drottni ødrum framar, og beri þessvegna mest á henni; samt þjóna hinslags myrkurin alltíd undir þaug drottnandi myrkur, eins og þrælar undir sinn Herra. Þetta er svipad því, sem þeir náttúruvísu seigja um háttheldin í manneskjunni: ad jafnvel þó eitt þeirra kunni ad drottna ødru framar hjá henni, og hafa yfirrádin, þá sé þó aldrei sú manneskja til, sem ecki hafi undirnidri snert af þeim øllum hjá sér samanblendudum. En þó er þad merkiligt, ad þessar ádurnefndu þrenslags tegundir hinna andligu myrkra hafa ecki einasta í misjafnri troppu drottnad hjá vissum manneskjum, heldur jafnvel hefur ein tegund þeirra drottnad framar á einni øldu enn annari, eins og Christindóms søgurnar augljósliga sýna. En svo sem vantrúin geingur í rauninni alltíd undan hjátrúnni, og sídan undirnidri fylgir henni, (því manneskjan, þegar hún ecki vill þeim rétta sannleika trúa, tekur hún ad trúa lýginni, þar hún gétur ecki án

þess verið, að trúa einhvorn); svo tók og vantrúin strax á Postulanna dögum, að hreifa sér gégn lærdómi þeirra um Jesú Christs persónu; þar villulærendurnir Cerinthus og Ebión vildu ecki trúa Jesú Guddómi; móti hvorjum því melnt er af sumum, að Jóhannes hafi einkum sitt Evangelíum skrifað, þar valla neinn talar með eins berum orðum, um Jesú Guddóm, sem hann; en Símons, þess samverska töframanns, villudómar, sem og svo á Postulanna dögum uppkomu, innihéldu ecki minni skérf af hjátrúar enn vantrúar grillum; þó feingu þessar villur einga stöðuga yfirdrottnun í Christi kyrkju, jafnvel þær skriðu, eins og annar höggormur í grasinu, og helbitu marga, sem ecki vöruðu sig við þeim því betur. Á þeirri 4du öldu eptir Christs daga, uppkom Aríusar villudómur, sem neitaði því að Guðs Sonar Guddómur væri eilífur frá upphafi, sem Foðursins, hvor kénníng að víða útbreiddist, og olli miklum styrjöldum í Guds kyrkju; að ótöldum mörgum öðrum vantrúarfóstrum, sem fæddust og uppólust af myrkranna sæði, um þá tíma; hvorra sum voru drepin með Andans sverði, í fæðíngunni, sum eptir það þaug höfðu nockuð stálpast; sum urðu að eins limlest, og sem úr launsátrum drápu sálir mannanna. Undirniðri með vantrúnni var þá hjátrúin optast nær í spilinu, og hjálpaði systir sinni til að herja uppá Sannleikans og Ljóssins ríki. Loksins tók hjátrúin svo að magnast, að hún tók við allri ríkisstjórninni, en hafði systur sína fyrir þernu, og þá jókst ríki myrkranna svo mjög, að undir vantrúarinnar forráðum hafði það aldrei jafnmektugt orðið. Því eptir það Páfans makt var stígin uppá hærstu troppu, undir Gregorío hinum sjöunda innleiddist svo margs-

kenar hjátrúar hindurvitni í Christs kyrkju, ad hún kunni valla leingur ad kénnast framar vid Christ enn vid Páfann, hvor dýrdkadur var rétt sem í Christi stad, og álitinn ad hafa þá somu makt á jordunni, sem hann. Þessvegna var nú Gud og Frelsarinn allsjaldnast leingur tilbedinn, heldur í þess stad, ýmsir helgir menn, fyrir laungu daudir, bædi sannir og lognir. Færstir treystu nú framar á Christs forþénustu til réttlætis, heldur á ýmislig sjálfsmidud helgiverk, sjálfs-píntíngar, pílagrímsreisur og hégómligar bænaþulur. Syndanna fyrirgéfníng var þá seld og keypt fyrir peníngas, og jafnvel kunnu menn ad kaupa med þeim, fordæmdum sálum himnaríki til handa. Sakrament kvøldmáltídar Drottins vors Jesú Christs var svikid af almúganum; en í þess stad innleidd tilbeidsla þess svokallada helgada brauds, og þannig versta Afgudadýrdkun gjord úr þeirri bestu Jesú innstiptun. Heiløg Ritníng var fyrirbodin ólærdum mønnum til lesturs, undir því yfirskini, ad hún væri þeim of vandskilin, en reyndar til þess, ad sannleikurinn ecki auglýstist, því þá var audvitad, ad sú drottnandi myrkra makt hlyti þarvid hneckir ad fá.

Slíkar skélfiligar hjátrúar og vantrúar villur voru útbreiddar hér um alla Nordurhálfuna, uns sá ógleymanligi Lærifadir vorrar kyrkju, Lútherus, og fleiri adrir, tóku ad leida Ritnínguna í ljós, og undir eins ljós heimsins Jesum Christum, sem í henni geymdur er, eins og Manna fordum í gullkøtunni. Þá frelsudust þeir allir úr myrkrunum, sem móti þessu blessada ljósi tóku, og því eptirfylgdu, svo hjátrúarinnar svarta ríki eydilagdist, en sannrar trúar sólfagra ríki aptur uppbygdist. Hér um þridjúngur af Nordurhálfunni fleit þá af sér Páfans ók, og géck Christó

til handa, þó ljósid og myrkrid ættu fyrst um tíma ærid stríd saman, ádurenn ljósid gjæti á tróninn setst, med rólighéitum. En — lof sé Gudi! Þad skédi þó um sídir, svo hjátrúin hefur ecki borid sitt bar sídan, og mun aldrei bera. Ad vísu hafa lønd þaug, sem ecki tóku móti því nýupprunna heimsins ljósi, alltaf, líkt sem ádur, hlýdt løgmáli hjátrúarinnar, þó hafa sannleikans geitslar nockrir þreyngt sér inn hjá þeim, jafnvel naudugum, og svipt Páfann ad miklu leiti sínum stóra mindugleika, og undireins dreigid dug úr ýmsum Páfadómsins lagasetníngum. Nú þó myrkranna ríki lidi svo mikla hneckíngu, sem sagt er, vid þá hreinsun trúarbragdanna, sem Lúther, og adrir honum líksinnadir, verkadu, hefur samt myrkranna kóngur ecki gésid sig upp, ad leitast víd á allann hátt, ad ná aptur sínu tapada veldi. Þessvegna þegar hjátrúnni var af stóli steypt, sem ádur er sagt, svo ríki hennar lagdist í audn, einkum í þessum nordustu løndum, og løgmál hennar vard, eptir því sem upplýsíngin vóx, haft svo ad spotti, ad fadir hennar sá fyrir, ad hún aldrei framar uppreisn fá mundi, tók hann ad reyna til, ad reisa ad nýu á fætur systir hennar vantrúna, í von um, ad hún gjæti nád aptur veldum systur sinnar, yfir sálum mannanna og dreigid þær frá Christo. Þessir hans atburdir feingu og svo mikinn framgáng á nærstlidinni 18du øldu; svo Jesús Christur, þad veruliga heimsins ljós, var nú ecki øllu sídur ordinn yfirgéfinn af óteluligum fjølda í þessum prótestantisku løndum, fyrir vantrúarinnar makt, heldur enn ádur fyrir hjátrúarinnar. Því midt í því sú fyrri, nefniliga vantrúin létst, med skinhelgi mikilli, fordæma hjegiljur systur sinnar, svo sem mótstridandi, ecki adeins Guds ordi, heldur heil-

brigdri skynsemi, tók hún undir eins ad reingja — svo sem líka (ad hennar dómi) mótstridandi skynseminni — þann uppársta biblíunnar sannleika, nefniliga: „ad Jesús Christur sé veruligur Gud og heimsins endurlausnari;" svo hún allein mætti ríkja í nádum, og Jesús Christur hefdi eckert tilkall til síns ríkis framar á jördunni. Já vantrúin var heim mun hjátrúnni verri — þó bádar séu bölvadar — ad þó hjátrúin settl önnur folsk fridþægingar medöl vid hlidina á því eina og sanna, neitadi hún aldrei, ad Jesús Christur, sem Gud og madur, væri fridþægjari fyrir veraldarinnar syndir; svo þad var ecki alls ómöguligt, ad nockrir, midt í hennar myrkrum, kynnu þó ad grípa til þessa rétta fridþægíngar medals, og verda svo hólpnir; en vantrúin, midt í því hún skúfar öllum framandi fridþægíngar medölum, — svo vel því eina sanna, sem öllum ödrum folskum, — gjörir öllum sínum áhángendum hreint ómöguligt ad fá fyrirgéfníngu synda sinna hjá Gudi, og hólpnir ad verda. Eins var í tilliti heil. Ritníngar, ad þó hjátrúin fyrirmunadi leikum mönnum ad lesa Ritnínguna, sem ádur er sagt, vegna þess hún væri þeim of þúngskilin, neitadi hún samt ecki ad Ritníngin Guds ordværi, og brunnur sá, úr hvörjum sönn Guds dýrdkan ætti medframm ad uppausast, af þeim sem til þess hæfir væru; en vantrúin þar á móti létst ad sönnu ecki afráda lestur Ritníngarinnar, en kappkostadi þó, af allri alúd, ad innræta þá meiníngu, ad hún væri í mörgu feilfull bók, svo öll virdíng fyrir henni, og hennar bestu lærdómum, skyldi þarmed gjörtapast.

Svo hafdi þá kóngúngur myrkranna feingid á ný, undir vantrúarinnar forstödu, ærid stórt ríki á jördunni,

er syndist hafa jafnvel sterkari grundvoll enn bíd fyrra; þar þad vyrdtist sem skynsemin hefdi þennann lagt, en innbirlingin hinn, og leit því út, í fyrsta áliti, ad vera ennnú ófsirvinnanligra.

En Jesús Christur, sá sem heitid hefur því, ad helvítis port ei megna skuli móti sinni kyrkju, hefur nú aptur ad nýu skipad ljósinu fram ad skýna út af myrkrunum. Ádur framkalladi hann þad fyrir Lúthers hond og annara hans lika, úr myrkrum hjátrúarinnar, nú framkallar hann þad aptur, á stakligann hátt, úr myrkrum vantrúarinnar, og hafi sú fyrri framkallan verid volduglig, er þessi sídari rétt hátídlig. Svo sem hin fyrri kom þegar hjátrúarinnar myrkur svortust vóru, svo þessi sídari þegar vantrúarinnar vóru þad. Sú guddómliga ljósleiptran, sem í hinni fyrri framkallan þess útstreymdi, breiddi sig ad eins yfir nockur riki þessarar nordurhálfu; en þad ljósins flód, sem nú útfossar, brýtst og breidist vídt og breidt út um alla heimsbygdina, eins og elding sú, er útgeingur frá upppaungu sólar, og skýn allt til hennar nidurgaungu. Þessi guddómliga ljóssins makt undirleggur ecki einasta þad óttaliga vantrúar ríki hja sjervitríngunum hér í nordurhálfunni, heldur og svo gjervallt myrkranna veldi um alla heimsbygdina. Því heimsins ljósid Jesús er nú tekinn ad breida út sína blessunarfullu nádargeitslu, midt á medal Gydinga, Tyrkja og Heidingja; svo sá allra gledilligasti tími sýnist ad færast í hond, sem Ritningarinnar spádóms andi fyrirheitid hefur, ad oll riki veraldarinnar verdi Guds og hans Christs, svo allar þjódir fái þeckt og tilbedid sinn endurlausnara. O gæfi Gud ad umsáturs tímar þeirrar andligu Jerúsalem af

myrkranna makt, mættu styttast, svo allt hold fái sem fyrst ad þeckia Guds hjálprædi!

§. 7. Þannig hefur nú, sem sagt er, ljós heimsins Jesús Christur skínid fram til ad eydileggja í heiminum þaug andligu myrkur vantrúar og hjátrúar, og allir þeir, sem honum fylgja vilja, frelsast undan þessara miskunarlausu satans dætra járnoki. En þó nú komi svo lángt, ad beggja þeirra makt sýnist útvortis bugud vera, svo þad vyrdist sem manneskjan hafi sönn og rétt trúarbrögd eptir Ritníngunni, jafnfjarlæg hjátrúarinnar hégiljum, sem vantrúarinnar sjervitsku, þá er samt hvorki sagt né sannad, hvort þaug svo fullkomliga inntekid hafi manneskjunnar hjarta, sem til þess þarf, ad verda hluttakandi í þeirra blessunum; þetta er ecki sannad, seigi eg, fyrr heldur enn sá heili þánkamáti og lifnadur hennar, vottar sig umbreyttann og lagadann vera eptir trúarbragdanna sanna anda, svo ad geislar af heimsins ljósinu Jesú Christo lýsi þeckjanliga fram af hennar ordum og athöfnum. Því svo leingi þad ecki skér, býr hulin vantrú og hjátrú inni fyrir í brjóstinu, þó sönn trú heyrist ad vera á vörunum; því andvaraleysi og ránglæti til orda og athafna spretta aldrei af ödrum rótum; hvorsvegna ad allir ógudligir eru vantrúadir, og allir vantrúadir ógudligir. Manneskjan má seigjæ hvad hún seigja vill; svo leingi hún elskar ecki heimsins ljósid Jesúm, svo leingi hún ecki, af elsku til hans, eptirfylgir honum og hlýdir, svo leingi trúir hún ecki á hann, og svo leingi hún ecki á hann trúir, hefur hún einga hlutdeild med honum. Vér höfum, Gudi sé lof! betstu Trúarbrögd, sem til eru í heiminum; þad sýnist sem hjátrú og vantrú hafi tapad allri sinni makt yfir oss; vér trúum því sem

postulinn segir: „ad Gud hafi verid í Christo forlíkandi heiminn vid siálfann sig; vér trúum, ad fyrirgéfníng syndanna fáist einasta fyrir Jesú fridþægíngar skuld; hvad vantar þá til sannrar trúar hiá oss? hofum vér ecki í krapti hennar fullkominn rétt til sáluhiálparinnar? þad er oldúngis ecki fullvist; iá, oldúngis ecki, nema þessi sama trú audsýni sig ávaxtarsama hiá oss í gudligu hugarfari og gódum verkum. En — hvad kallar þú þá gudligt hugarfar, og hvad kallar þú gódverk? viliid þér máské spyria. Eg svara: þad kalla eg gudligt hugarfar: ad hafa eptirlæti af, ad hugsa opt um Gud og gudliga hluti; ad hafa ydugligt ángur af syndum sínum og ávyrdíngum móti Gudi; ad bidia Gud þráfaldliga fyrirgéfníngar á þeim í Jesú nafni; ad þacka Gudi af ollu hiarta fyrir Jesúm Christ; ad elska Jesúm Christ fyrir hans pínu og dauda, sem hann leid mannkyninu til endurlausnar; ad gyrnast af ollu hiarta annara manna velferd sem sína, og bidia inniliga fyrir þeirra umvendun til Guds; ad hafa alvarliga eptirlaungun til heilags lífernis, Guds orda yfirvegunar, Guds dýrdar útbreidslu, Jesú kvoldmáltídar medtekníngar, sannra Guds barna samfélagsskapar og eilífs lífs arftoku. Þetta kalla eg nú gudligt hugarfar. En gódverk kalla eg oll þaug verk, sem framkoma af þesshattar hugarfari, hvort heldur þaug audsýna sig í strídi móti syndinni, sem býr í siálfum manni edur odrum, vandlæti fyrir Guds dýrd, kiærleiksverkum vid náúngann, þolinmædi í þiáníngum, edur hvorju odru. En hvorsu fáir eru þessir lambsins eptirfylgendur? hvorsu fáir þeir, sem þessi ádurtalin kénnimerki votti sig svo hiá, ad menn kunni fyrir víst ad segia, ad þaug framar séu ávextir trúarinnar enn skynseminnar;

andans, enn náttúrunnar; réttlætisins, enn yfirdrepskaparins. Gud nádi þad! Vér hofum þaug bestu Trúarbrogd, þad er víst og satt; því þad eru þau bestu traúrbrogd: sem mest upphefja Gud, en audmykja syndarann. Og þad einmidt gjora þaug evangelisku Trúarbrogd; og þad med eingu framar, enn lærdóminum um Jesú fullnægjugjord vegna vor, og vora réttlætíngu einúngis fyrir hans skuld. Því med þeim lærdómi tilleggst Gudi oll æran fyrir betrun manns og sáluhjálp, en enginn manneskjunui. Hann kémur manni til ad skammast sín í Guds augliti, ecki ad eins fyrir lesti sína, heldur og svo fyrir sínar dygdir, vegna þess stóra vansa, sem vid þær lodir; já kémur manni til ad bidja fyrirgéfníngar á hvorjutveggja í Jesú nafni. Hann sýnir manni ad sá útvortis dygdugi hefur eingann meiri rétt til sáluhjálparinnar, enn sá lastafulli, þar bádir eru reidinnar born af náttúrunni. Þessvegna gjorir þessi lærdómur hvorn þann mann, sem honum hjá sér rúm géfur, af hjarta audmjúkann fyrir Gudi og monnum; knýr hann þó og drífur, eingu ad sídur, óaflátanligu til gódra verka, ecki svo út af elsku til dygdarinnar, vegna hennar fegurdar, eins og Heidíngja suma, heldur allra heldst af elskunni til Guds fyrir Jesúm Christ; ecki af girnd til eigin heidurs, eins og hræsnarana, heldur af laungun til ad heidra Gud med gódum athofnum. Yfirhofud, verdur Guds einskjæra nád í Christó, eptir þessum himneska lærdómi sá einasti midpúnktur mannsins trúar, hennar fasta slot í lífinu og hennar lífatkéri í daudanum. Vér hofum betstu Trúarbrogd, seigi eg enn aptur, en þess vandfarnara er oss, þess stærri reikníng heimtar Gud af oss, þess þýngra straffi sætum vér, ef vér illa breytum og ecki svo sem vorum bestu trúarbrogdum sambýdur;

þá verdur Sódóma og Gómorra, Tyrkjanum og Heidingjanum, bæriligra á dómsdeigi, enn oss. En aptur á móti, ef vér trúliga fylgjum vorum trúarbrogdum, bædi med innvortis og útvortis dygdum, verdum vér lukkuligastir allra manna; Gud hefur þá af eingum sínum sýnligu skepnum adra eins dýrd, sem af oss. Vér verdum þá þær betstu manneskjur á jördunni, og þær dýrdligustu á himnum. Gud gèfi oss þeirrar lucku ad leita og njóta! Svo hefi eg þá nockud útlistad meiníngu þessara Jesú orda: „hvor hann eptirfylgir mér, sá mun eigi gánga í myrkrunum", edur hvad þad sé, sem þeir fríast og frelsast frá, sem eptirfylgja honum, því blessada heimsins ljósi. Nú fylgir seinast fáordliga ad tala um: hvært þad góda sé, sem þeir þá í stadinn úr býtum bera; þad innibindur Jesús í þessum ordum:

§. 8. „Þeir munu hafa ljós lífsins." Fá eru ord þessi, brædur mínir! en yfrid meiníngafull. Ordid ljós er hér í mótsettri merkíngu vid ordid myrkur, sem ádur er umtalad; svo allt þad gagnstæda því, sem eg heimfærdi myrkurin uppá, innilykst hér í merkíngu ordsins ljós, og þó nockud enn meira. Því meiníngu ordsins myrkur heimfærdi eg einastu til andligra myrkra, sem stad hafa í þessu lífi hjá öllum ógudligum, en merkíng ordsins ljós kann hér vel ad líta leingra, enn til þessa nálæga lífs; þad er: merkja, ecki ad eins andligt ljós trúarinnar og gudligs lífernis, sem hér í heimi finnur stad, heldur og svo eilíft ljós dýrdarinnar í eptirkomandi veröldu.

Til þess finst mér Jesús á vissann hátt benda, med því ad hann nefnir ecki einasta ljós, eins og ádur myrkur, heldur ljós lífsins; og þetta tillagda ord:

lífsins, tilleggur merkíngu orðsins ljós, ærinn vígtugs leika. Annars sýnist sem Jóhannes sjálfur, hvor orð þessi framfærir eptir Jesú munni, hafi til þeirra þeinkt og líka sem að nockru leiti útlagt, í inngángi síns Evangelii, þar sem hann talar um það eilífa orð fødursins, sem hann segir, að í upphafi (það er frá eilífu) hafi verið hjá Guði, já hafi verið sjálfur Guð, fyrir hvørs krapt að allir hlutir skapaðir séu; því hann segir um þetta eilífa orð, þar strags á aptir: í hønum, nefniliga í Guðs syni (sem hann segir verið hafi þetta sama orð) „í hønum var lífið, og lífið var ljós mannanna," segir hann. Svo meiga þá orð Jesú, í vorum texta, útskýrast svoleiðis: „þeir trúuða, sem Jesú eptirfylgja (það „er elska hann og hlýða honum), munu af hønum, sem „er lífið sjálft, í sinni eigin veru, og øllum heimi líf „géfur, já, er sjálfur sannur Guð og eilíft líf, af „hønum munu þeir øðlast eitt lífganda ljós, það er: „verða uppfylltir og gégnumþreyngðir af því ljósi, sem „hønum sjálfum eiginligast er, nefniliga: af heilag„leikans og dýrðarinnar ljósi." Og er þetta ecki allítið fyrirheit, kjærir brøður! því það sýnir þann sannleika sem Jesús framsetti síðar í sinni høfuðprestligu bæn, til síns himneska føðurs, undir sína blóðugu pínu, nær hann bað: „að þeir trúuðu mættu verða „sér svo innlífaðir, sem þeir væru í sjálfum høn„um og sem eitt með hønum; svo þeir, fyrir þá „sameiningu, yrðu hluttakandi, fyrst í hans heilagleika „hér í lífi, og síðan í hans dýrð í øðru lífi." Því það er sjálfsagt og sambjóðandi náðar-sáttmálans niðurrøðun, að ljós heilagleikans hjá þeim trúuðu, verður að gánga á undan ljósi dýrðarinnar; það er: að

þeir kunna aldrei annars heims ad verda hluttakandi í þeim dýrdar ljóma, sem fadir Drottins vors Jesú Christi hefur sínum syni, eptir manndóminum, géfid, nema því ad eins, ad þeir ádur hér í lífi hafi hluttekníngu hast í ljóma hans réttlætis og heilagleika. Ja, þessi ljómi edur ljós verdur ecki einasta ad gánga á undan hinu, heldur er þad þaradauki sem einslags sædi til þess, og jafnvel þess fyrsti frumgródi. Enda er þad líka sjálfsagt, ad þeir sem Jesú, því sanna heimsins ljósi, réttiliga í trúnni eptirfylgja, þeir inndrecka frá honum ljóssins náttúru, og verda ljós í Drottni; og þetta skédur vegna þess, ad hans dýrmæta forþénustu réttlæti tileinkast þeim, innlífast og sameinast; svo allt eins og járnid, sem í eldinn lagt er, verdur af eldinum svo gégnumþreingt og uppfyllt, ad þad loksins skýn sjálft, eins og þad eintómis eldur væri; á líkann hátt geingur þad fyrir þeim sanntrúudu. Jesú tileinkada réttlætis ljós uppfyllir svo þeirra innra mann, ad hann verdur líka sem skýnandi í Guds augum, og tekur sídan ad skýna líka svo útvortis, fyrir annara augum, í gudligum lífnadi. Af þessu þeirra ljósi, hafa þá, bædi sjálfir þeir og adrir, stærsta gagn og gledi.

Hvílíkt gagn ad adrir af því hafi, edur ad minsta kosti hafa meigi, er audskilid, því þad er þeim, nærst sjálfu heimsins ljósinu Jesú Christo, betsti leidarvísir til eilífs lífs. Því þegar einn óendurfæddur madur, sem ennnú geingur í myrkrunum, sjer fyrir augum sér einn endurfæddann, edur jafnvel heyrir frá honum sagt, sem geingur edur geingid hefur þeckjanliga í ljósinu, má hann þar vid uppvekjast, til ad bera sig ad seta í hans fótspor; hvad hann má halda sér því meguligra, sem hann veit, ad hinn var þó, af náttúrunni, eins

undir syndina seldur, sem sjálfur hann, svo ef hann vildi eins trúliga géfa sig til Jesú eptirfylgdar, sem hinn það gjordt hefur, mætti hann verda eins fagur í Guds og manna augum, sem hinn er, eda verid hefur, og sídan verda eins luckuligur. Og í þessu tilliti kann sá sem óumvendtur er, en þó umvendast vill, ad hafa það gagn af eins Guds barns eptirdæmi, sem hann ecki eiginliga haft gétur af eptirdæmi sjálfs Jesú; eins og hann líka, í ødru tilliti, hefur það gagn af Jesú dæmi, sem hann ecki haft gétur af dæmi nockurs Guds barns. Af Jesú dæmi sjer hann munstur og speigil þessa sanna heilagleika, sem óyggjanliga hlýtur Gudi ad þócknast; en í eins Guds barns dæmi fær hann ad sjá munstur þess møguliga heilagleika, sem hjá syndugri manneskju fundist gétur. Svo þó hann vildi afbata sig med sinni syndugu náttúru og tilhneigíngum, ad hann ecki géti Jesú líkst, sem sjálfur var af náttúrunni heilagur, og huggi sig svo vid það falskliga, ad Gud ecki til þess ætlist; þá gétur sú afbøtun ecki stad haft, nær hann sjer edur þeckir eina, af náttúrunni jafnspillta manneskju, sem sig, skýna í heiløgu líferni; þar hann vita má, ad Gud vill ecki framar synja sér, enn hinum, nádar sinnar, til ad verda heilagur, ef hann bæri sig eins eptir henni, og tæki eins á móti henni, sem hinn það gjørdt hefur, þar Gud vill þó, ad hann eins vel sem hinn annar, hólpinn verdi. En svo mikid gagn, sem adrir meiga nú hafa, af því lífsins ljósi, sem trúadur madur, út af Jesú réttlæti, odlast hefur, því audskiljanligra er það gagn og sú gledi, sem sjálfur sá má af því hafa, er þess nýtur. Gagnid vil eg ecki umtala, því það seigir sig sjálft, hvílík lucka það sé, ad vera ljóssins barn; vera uppfylltur af Jesú réttlæti, vera leiddur af heiløgum anda, útvalinn

til arfskiptis med þeim heilögu í ljósinu, og hafa óska-barnaréttarins innsigli þeckjanliga á sálu sinni. Hvílíkrar gledi má slíkt ecki olla einu Guds barni? Hvad hefur sá ad óttast, sem þannig er innlífadur Gudi. hvør ed finnur Guds nádar ljós í sálu sinni, og vitnisburd Guds anda, um sína útvalníngu til eilífs lífs? Eingin hørmúng; eingin freistíng og ecki daudinn sjálfur þarf ad buga hans hugarhreysti. Það lífsins ljós, sem í honum lifir, fyrir trúna á Guds son, gétur øll þessi myrkur upplýst. Hørmúnganna myrkur, því hann veit ad Drottinn er sá sem myrkrid skapar eins og ljósid (rétt eins og Gud seigir um sjálfann sig hjá Esaiam), og ad hann muni þessvegna sínu myrkri skjótliga í ljós umbreyta. Eins upplýsir það hans freistínga myrkur; því hann trúir því sem Davíd seigir: ad þeim réttláta, þó hann um bríd hljóti í myrkrinu ad sitja, muni ljósid innan skamms upprenna, og føgnudurinn í hjørtum þeirra frómu. Allt eins mun þetta lífsins ljós upplýsa sjálf daudans myrkur fyrir þeim sem sannur Jesú eptirfylgjari er, því hann gledur sig vid þá sømu trú, sem ádur nefndur Guds madur David: ad Gud muni sína sálu úr daudanum frelsa, og ad hann, innan fárra augnablika, elgi víst, ad gánga fyrir Gudi í ljósi þeirra lifendu. Já, þó hans náttúrligá lífs ljós slockni í daudans stormi, er sá trúadi fullsannfærdur um, ad það lífsins ljós, sem hann af Jesu Christo ødlast hefur, gétur aldrei sloknad, heldur tekur þá jafnvel til ad lýsa sem gladast, þegar øll ønnur ljós slockna. Svo ad sá nádarinnar morgunrodi, sem hann ádur fann í sálu sinni, medan hann lifdi hér í Jesú eptirfylgd, verdur þá ad fagurskýnandi dýrdardeigi, þegar hann sáluhólpinn kémur inní adra verøldu, hvar hann fær ad sjá Jesúm í hans full-

komna hátignar ljóma, og af hinum sama, ásamt öllum útvöldum eilífliga að gleðjast. Eja, værum vér þar! Látum oss þá, bræður! látum oss þá alla trúliga eptirfylgja því hábleßaða heimsins ljósi, Herranum Jesú Christo, meðan lífið tilendist; já, látum oss eptirfylgja honum, svo myrkurin höndli oss ecki, hvörki andlig myrkur vantrúarlegsis hér í lífi, né eilíf myrkur fordæmingarinnar, annars heims!

Já, í Guðs nafni! hvör sem híngaðtil hefur í myrkrunum geingið, komi hann til ljóssins, svo að straffist hans verk, og hann í tíma sjeð fái, hvörn voða hann er viðkominn, ef hann leingur í myrkrunum áfram heldur! En hvör sá sem seigist ljósið elska, láti hann þá sínar gjörðir bera vitni sinni játníngu, með því, að það sanníst, nær hann kémur til ljóssins, að þær séu í Guði gjörðar! O þú ljós þeirrar nýju Jerúsalem, þú lambið Guðs, herra Jesú Christe! uppbyrtu þína Christni svo, með ljóma þíns heilaga Evangelii, að ecki alleinasta allir hennar eigin borgarar upplýsist, heldur mætti hennar glansi og byrta leggja svo víðt og breiðt út um alla veröldina, að allar þær þjóðir, sem ennnú sitja í myrkrum villudómsins, mættu koma til að gánga í hennar ljósi; já, að kóngar jarðarinnar mættu flytja sína dýrð, og heiðíngjarnir sinn heiður inní hana, allt til þess, að á jörðunni verður eingin nótt framar! O að trón Guðs og lambsins væri hjá oss, og að vér, sem hans trúlyndir þénarar, mættum hér tilbiðja fyrir hans fótskor, og lofsins ríkja með honum frá eilífð til eilífðar!

Amen!

☞ Evangéliskt Smárit frá byrjun Nr. 58, eru að fá í Reykjavík, í Flatey á Breiðafyrði, á Eyafyrði og á Reiðarfyrði, géfins þeim, sem taka þar við þeim sjálfir, en þeir sem þurfa að senda þaug eður flytja, meiga taka 1 ß. undir 1 ark, hjá þeim sem þeir færa þaug, ef vilja.

Kaupmannahöfn 1844. Prentað hjá S. L. Möller.